Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

11. tölublað | Þriðjudagurinn 14. mars 1978 | 7. árgangur | Verð kr. 80.-

## Verkafólk ber enga ábyrgð á kreppu auðvaldsins

Lögum ríkisstjórnarinnar um ráðstafanir í efnahagsmálum er ætlað það hlutverk að velta kreppu auðvaldsins yfir á herðar vinnandi fólks. Þessi aðferð er okkur vel kunn, en þó er það nýlunda síðan 1942, að ríkisvaldið gangi svo gróflega á gerða vinnusamninga til hagsbóta fyrir atvinnurekendur og braskaralýð þessa lands.

Árið 1942 þegar svipaðri aðferð var beitt, var verkalýðshreyfingin vel í stakk búin til að brjóta atlöguna á bak aftur, enda hefur kaupmáttur verkafólks sjaldan verið betri en þá. En hvernig er verkalýðshreyfingin í stakk búin í dag ? Í fyrsta lagi er þáttaka hins almenna félaga í verkalýðshreyfingunni miklu minni í stefnumótun og störfum verkalýðsfélaganna. Miðstjórnarvaldið hefur stór aukist jafnhliða því sem flestir forystumenn Alþýðusamtakanna hafa ( a. m. hér á stór-Reykjarvíkursvæðinu ) slitnað úr tengslum við lífskjör verkalýðstéttarinnar. Forýstumenn hreyfingarinnar taka undir verðbólgusöng atvinnurekenda og reyna að koma með úrlausnir á efnahagsvandræðunum án þess að við efnahagskerfi arðráns og auðvalds sé hróflað. Það kann ekki góðri lukku að stýra, þegar leiðandi menn verkalýðshreyfingarinnar sjá ekki aðra lausn á efnahagsvandanum en þá að lagfæra verstu líkþorn auðvaldsbúskaparins. Við verkafólkið og önnur vinnandi alþýða þessa lands, berum enga ábyrgð á kreppu auðvaldsframleiðslunnar er borgarastéttin ríkir yfir. Baráttu okkar í auðvaldsskipulaginu verður að miða við afnám þess. Við munum ekki gera það í einu vetfangi, heldur með þrautseigu starfi fyrir réttri stefnu innan verkalýðshreyfingarinnar og uppbyggingu Kommúnistaflokksins sem framvarðasveitar í baráttunni.

Vegna hinnar grimmúðlegu árásar auðvaldssins á lífsafkomu okkar, verður allt stéttvíst verkafólk að berjast fyrir því, hvert á sínum vinnustað

Framhald á síðu 3.



Frá samstarfsfundi launþegasamtakanna þar sem viðbrögð við ólögunum voru rædd.

## Hvað er framundan?

Tilgangslitlar viðræður eiga sér nú stað milli ASÍ og VSÍ, vegna kjaraskerðingarlaganna er samþykkt voru á Alþingi. Tæplega verða þessar viðræður til þess að Alþingi falli frá lögunum og atvinnurekendur gefi eftir þann spón úr aski sínum er ríkisstjórnin rétti að þeim. Í auðvaldsþjóðfélagi þar sem einkaeign á atvinnutækjunum gildir, þrýsta auðmennirnir stöðugt niður lífskjörum okkar fjöldanns sem verðmætin skapar og er nú svo komið að óhóflegan langan vinnudag þarf til þess að fólk komist bærilega af. Kjaraskerðing sú sem lög ríkisstjórnarinnar fela í sér, er einhver grimmilegasta árás á kjör og frjálsan samningsrétt verkalýðshreyfingarinnar um áratuga skeið. Hvort takast mun að brjóta lögin á bak aftur og fá samningana í gildi, verður prófsteinn á samtakamátt launafólks í landinu og um leið hvort lýðræðislegur og frjáls samningsréttur fái að gilda í framtíðinni á Íslandi.

Sú forysta sem er fyrir Alþýðusamtökunum er margklofin í afstöðunni til þeirra aðgerða sem grípa á til. Sumir verkalýðsforingjanna eru dyggir stuðningsmenn núverandi ríkisstjórnar og vilja að félagsmenn sínir sætti sig við kjaraskerðingarnar. Alþýðubandalagsmennirnir hika með árangursríkar aðgerðir ef ske kynni að illa færi og atkvæðin yrðu færri í vor af þeim sökum. Sá flokkur er í þeirri kreppu að vera í meirihluta í miðstjórn ASÍ í fyrsta skipti frá stofnun þess árið 1916. Ástæðan fyrir því eru veikindi Björns Jónssonar, og er þá ekki hægt að skella skuldinni á Alþýðuflokkinn ef að illa fer. Alþýðubandalagið eins og aðrir krataflokkar setur hagsmuni einstaklinganna í forystunni ofar hagsmunum verkafólksins sem styður flokkinn. Vonin um bitlinga auð og völd í ríkisstjórnarsætum auðvaldssins, kemur í veg fyrir að verkalýðsforingjar AB. grípi til öflugra aðgerða gegn kjaraskerðingunum, því þær gætu mögulega spillt atkvæðum vaklandi og löghlýðinna sálna. Eins og allir vita telur forysta Alþýðubandalagsins að hægt sé að leysa vandamál verkalýðs-

Framhald á síðu 2.

## Kolanámumenn í USA berjast enn



Amerískur þjóðvarðliði að vernda verkfallsbrjóta.

Verkfall kolanámumanna í Bandaríkjunum hefur nú staðið í þrjá mánuði. Þann 25. febr. s.l. tókst samkomulag milli námueigenda og stjórnar námamannasambandssins ( UMU ) Samnigur þessi var felldur í alsherjaratkvæðagreiðslu meðal verkamanna. Carter forseti Bandaríkjanna hefur því beitt Taft-Hartley lögunum til þess að skipa námamönnum að snúa aftur til vinnu. Jafnframt hefur þjóðvarðlið verið hvatt á vettvang og virðist ætlunin að láta verkfallsbrjóta vinna í skjóli vopnavalds. Víða hefur komið til átaka og hafa a.m.k. tveir verkamenn verið drepnir í átökunum og margir hafa særst.

Verkamenn telja að svo miklu hafi verið fórnað í þessari baráttu, að ekki komi til greina að gefast upp án þess að fá helstu kröfur sínar fram. Meðal ann-

Framhald á síðu 5.

Baráttueining 1.MAÍ

## Fundur 19. mars um aðgerðir 1. maí

Kommúnistaflokkur Íslands marxistar-lenínistar hefur ákveðið að leita eftir víðtækri samstöðu hinna ýmsu samtaka og félaga um sameiginlegar aðgerðir í Reykjavík 1. maí 1978 Eftirfarandi er tillaga KFÍ/ML um form og grundvöll þessara aðgerða, lögð fram til umræðu. Með þetta markmið í huga boðar KFÍ/ML til fundar laugardaginn 19. mars n.k. í húsi Hins íslenska prentarafélags kl. 14.00, þar sem allir þeir sem óska eftir samstöðu 1.maí 1978 um einhver aðalkjörorðanna í tillögu okkar um grundvöll aðgerðanna, eru hvattir til að mæta.

KFÍ/ML leggur til að sú samfylking sem kann að skapast

Framhald á síðu 3.

## Baráttueining 1.maí boðar til fundar

LEIÐARI

# Samfylking!

Eitt er það vandamál sem ævinlega hefur fylgt róttækri verkalýðshreyfingu í gegn um árin, en það er giftuleysi í samstarfi og klofningur hreyfingarinnar. Nú nokkur undanfarin ár hefur þó orðið vart vilja til einingar róttækasta hluta verkalýðshreyfingarinnar í ýmsum mjög mikilvægum baráttumálum. Það sem á milli ber er yfirleitt mjög lítið og oft á tíðum verður ekki séð að það komi þeim baráttumálum sem um er fjallað beint við.

Það hefur viljað brenna við að menn hafi fundið sér upp deilumál sem eru alls óskyld þeim baráttumálum sem eru á dagsskrá.

Þetta hefur m.a. oft komið fram á hinum alþjóðlega baráttudegi verkalýðsins 1. maí. Þá hafa andstæðingar stéttasamvinnu ASÍ-forystunnar ekki getað staðið saman um aðgerðir hér í Reykjavík. Auðvitað er það skaðlegt fyrir þá baráttu sem nauðsynleg er til uppbyggingar verkalýðssamtakanna sem baráttutækis í höndum verkalýðsins. Skaðsemi sundrungarinnar felst m.a. í því að baráttusinnar virðast vera nöldursamir naflaskoðarar, sem aðeins hugsa um fánýtt karp sín á milli. Afleiðingin af því er að allur þorri verkafólks situr hjá í þessari baráttu.

Kommúnistaflokkurinn leggur áherslu á að umbreyta þessu. Hans stefna er að lögð verði höfuðáhersla á meginatriðin þ.e. baráttuna gegn auðvaldinu og handbendum þess, en draga úr áhrifamætti aukaatriðanna sem skipta minna máli.

Hinn róttæki hluti verkalýðshreyfingarinnar ætti að geta átt flest sameiginlegt og það ætti að vera meginsjónarmið hans að skapa öfluga einingarfylkingu gegn auðvaldinu. Þetta er aðalmarkmið okkar í dag, sköpun baráttueiningar um kjaramál, jafnréttismál, lýðréttindi o.s.frv.. Sundrungin þjónar aðeins auðvaldinu og veikir baráttuna fyrir hagsmunum verkalýðsstéttarinnar.

Ef hin róttæka verkalýðshreyfing ætlar að láta taka sig alvarlega, verður hún að miða baráttu sína við að safna saman öllum mögulegum bandamönnum í hverjum málaflokki. Það er eina vonin til að árangur náist og komið verði í veg fyrir að alls konar loddarar afvegaleiði baráttuna, til ómælds skaða fyrir verkalýðinn.

Mikilvægustu baráttumálin nú eru baráttan gegn launalækkun ríkisvaldsins. Í þessu máli er mikilvægt að efla baráttuna á sem breiðustum grundvelli, með öflugustu aðgerðir í huga. Markviss barátta gegn ólögunum, með virkri þátttöku fjöldans er eina vopnið sem hnekkt getur kjaraskerðingarárás ríkisvaldsins.

Samfylking róttæka hluta verkalýðshreyfingarinnar er ein fær um að leiða þessa baráttu til sigurs. Nauðsynlegt er að menn geri sér grein fyrir því að um þetta mál er róttæki armurinn sammála en í dag stendur hann þó sundraður í baráttunni um það. Hver húkir í sínu horni og reynir þaðan að berjast eftir mætti. En þannig næst ekki nema brot af þeim árangri sem næðist ef raunveruleg baráttueining væri um aðgerðir í þessu máli. Ef slík eining næðist og að henni verður skilyrðislaust að vinna, væri án efa hægt að virkja fram til baráttu mikinn fjölda allra þeirra sem andvígir eru aðgerðum ríkisvaldsins. Allt starf sem miðar gegn því að slík samfylking myndist og verði öflug, er fjandsamlegt allri vinnandi alþýðu landsins.

Látum sundrungu undanfarinna ára okkur að kenningu verða. Af henni höfum við lært hversu einingin er mikilvæg og að hún er frumskilyrði fyrir því að sigur náist yfir auðvaldinu.

# Hvað er framundan?

Framhald af forsíðu

sins án þess að afnema framleiðsluhætti auðvaldsskipulagsins, með því einu að kjósa þá til forystu í „ Alþýðustjórn" Að vísu verður það að segjast eins og er að reynsla okkar af slíkum stjórnum hefur verið sú að kjaraskerðingarnar hafa ekki verið eins ofboðslegar og nú er, en þó miklar eigi að síður. En barátta fyrir einhverskonar „ Alþýðuríkisstjórnum" til að stjórna þjóðarskútu auðvaldssins er og verður aldrei barátta fyrir varanlegri lausn á vandamálum meðlima verkalýðshreyfingarinnar og annarar vinnandi alþýðu. Það er aðeins baráttan fyrir afnámi þeirra framleiðsluhátta auðvaldssins sem nú ríkja og uppbygging sameignarframleiðslunnar sem kemur til með að leysa vandann. Fyrir því markmiði berst Kommúnistaflokkur Íslands einn flokka, hægt og bítandi.

Svo að vikið sé að lokum að ástandinu í kjaramálunum og hvað muni verða efst á baugi í þeim málum, er skemmst frá að segja að allt virðist á huldu með það. Innan forystu verkalýðshreyfingarinnar er rætt um að grípa ekki til neinna aðgerða fyrr en í næsta mánuði.

Það liggur beint við út frá hagsmunum verkafólks að grípa tafarlaust til útflutningsbanns um allt land, jafnhliða því sem skipulögð væru skæruverkföll á þeim vinnustöðum þar sem samtakamáttur verkamanna er bestur. Lágmarkskrafan er : Samningana tafarlaust í gildi. Hver einasti verkamaður er tekur við launum sínum, skyldi kvitta fyrir þau með fyrirvara ef atvinnurekandinn hefur gerst svo ósvífinn að borga út á annan hátt en að samningar gera ráð fyrir. Frammundan er hörð barátta til að verja kjörin. Takmark okkar kommúnista er ekki að skapa óróa á vinnumarkaðnum eins og atvinnurekendur breiða út, heldur að standa harðir við hlið okkar vinnufélaga og fá samninga virta og haldna af atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra.

# Baráttuandi í Félagsstofnun stúdenta

Framhald af baksíðu

Eitt af þeim atriðum, sem hvað best var í dagskránni var söngurinn. Sungnir voru gamlir og nýir textar úr baráttunni m.a. eftir Örn Bjarnason og svo „Eitt lítið og sólskinsbjart ljóð" eftir Jóhannes úr Kötlum. Tveir nýir textar komu fram í tengslum við þessa dagskrá. Þessir tveir textar eru sannkallaðir baráttutextar, og er vonandi að við fáum að njóta þeirra í framtíðinni. Það voru þau Dagný Kristjánsdóttir og Kristján Jónsson sem sömdu þá. Af öðrum söng er það að segja að Kór Alþýðumenningar kom fram á fundinum. Tókst honum ágætlega upp , en það er sorglegt hvað kórinn hefur úr lélegum textum að spila. Þeir eru hálfgerður leirburður flestir. Þessu þarf endilega að ráða bót á, því róttækur kór er bráð nauðsynlegt fyrirbæri. En það þarf að efla róttæka listköpun og iðkun víðar en í Kór Alþýðumenningar. Til dæmis var mjög gaman að sönghópnum sem var myndaður sérstaklega fyrir þennan fund. Það væri óvitlaust að halda því starfi áfram.

Í heild má segja að þessi fundur hafi verið mjög vel heppnaður. Þar kom glöggt í ljós sú afstöðubreyting sem orðið hefur innan Rauðsokkahreyfingarinnar

Frá því að leggja megináherslu á hina kynferðislegu kúgun á kostnað stéttarlegrar afstöðu, hefur hreyfingin þróast til þess að gera nú báðum hliðum málsins rækileg skil.

Þessi fundur á alþjóðlegum baráttudegi verkakvenna á ekkert skylt við sönginn um Fósturlandsins Freyju eða blómasölu á mæðradag.

Við erum hér til þess að leggja áherslu á sérstöðu kvenna á vinnumarkaði, á heimilum og innan verkalýðshreyfingarinnar. Þeirra vandamál eru svo dæmi séu tekin: Tvöfalt vinnuálag og rótgróin fyrirlitning á kvennastörfum, þær búa við óöryggi á vinnumarkaði og eru yfirgnæfandi meirihluti láglaunafólks.

Góðir félagar.

Fundur á alþjóðlegum baráttudegi kvenna, er ekki markmið í sjálfu sér, heldur liður í baráttunni gegn óviðunandi ástandi. Þess vegna skulum við leggja niður þann landlæga sið að karpa út af hernum. Við skulum taka höndum saman í baráttunni um frelsun konunnar og annarra undirokaðra hópa.

framh. af síðu 5

ARONSKAN
SELUR SJÁLFSTÆÐIÐ

ráða. Þessi alþýðufjandsamlega stefna hefur þótt furðu sætir, eitthvert fylgi meðal verkafólks og annarar vinnandi alþýðu. Félagar í samtökum herstöðvaandstæðinga og allir þeir sem vilja vernda sjálfstæði þjóðarinnar, verða með skefjalausri fræðslustarfsemi að afhjúpa Aronskuna og ganga að henni dauðri á meðal alþýðunnar, sjálfstæði þjóðarinnar er í veði.



# 8.mars fólk sameinist



Eins og sést á myndinni var margt fólk á fundi "8. mars-hreyfingarinnar" en það sem þó skyggði á, var skortur á einingarvilja forsprakka fundarins.

Framhald af baksíðu

Sovétríkjanna er. "Eikarar" sem eru forsvarsmenn "8. mars-hreyfingarinnar" hafa látið að því liggja að Rauðsokkar vilji ekki berjast gegn allri heimsvaldastefnu og eiga þeir þá við Sovét. En það sem þeim yfirsést þegar þeir kljúfa kvennahreyfinguna á Íslandi er það - að það er ekki grundvallar kvennabaráttumál, hvort Sovétríkin eru heimsvaldasinnað ríki eða ekki.

Hér höfum við hreyfinguna Samtök herstöðvaandstæðinga sem hefur þetta meginverkefni á stefnuskrá sinni að berjast gegn allri heimsvaldastefnu. Samkvæmt stefnu Eik (ml) væri rétt að kljúfa SHA á spurningunni um að þau berðust ekki fyrir hagsmunamálum kvenna.

Málstaður Rauðsokkanna er sá að þar sem meðal kvenna séu skiptar skoðanir um hin ólíkustu mál, þá sé rétt að sameinast eingöngu um baráttumal kvenna enda er um þau víðtæk samstaða. Hitt er svo annað mál að sú stefna hefur mikið fylgi meðal Rauðsokka að Sovétríkin séu heimsvaldasinnað ríki.

Það er mikilvægt að fólk skilji nauðsyn einingarinnar og varist það sem sett er fram til að sundra samstöðunni. Í þetta skipti hefði verið hægt að halda einn 800 manna fund þar sem kvennabaráttan hefði eflst og styrkst.

Svo geta allir mætt á fund þann 30. mars hjá SHA til að berjast gegn allri heimsvaldastefnu.

Sameining hreyfinganna tveggja"8. mars-og Rauðsokkahreyfingarinnar" er það sem vinna verður að.

Baráttueining 1. MAÍ

# Fundur 19. mars um aðgerðir 1. maí

Framhald af forsíðu

1. maí 1978 beri yfirskriftina "Baráttueining 1. maí 1978". Það skal þó tekið fram að KFÍ/ML setur þessa yfirskrift ekki fram semúrslitaatriði um þátttöku hans.

Jafnframt leggur KFÍ/ML til þannig að sem flestum sé gert mögulegt að taka þátt, að "Baráttueiningul 1. maí 1978" verði skipt í deildir. Þannig getur aðild hvers aðila takmarkast af þátttöku í einni eða fleiri deildum. Með þessu móti teljum við að samtökum og félögum, sem vinna að afmörkuðum baráttumálum, sé gert kleift að lýsa yfir aðild sinni að þeirri deils, sem samræmist þeim baráttumálum, sem stefnuskrá eða stefnumörkun þeirra gerir ráð fyrir, en þurfi ekki að taka afstöðu til annara deilda "Baráttueiningar 1. maí 1978", enda er ekki möguleiki að krefjast þess af slíkum samtökum eða félögum að þau fari út fyrir stefnuskrá eða stefnumörkun sína. (Á það skal bent að t.d. aðgerðir ASÍ bjóða ekki uppá þennan möguleika né nein önnur aðgerð undanfarin ár utan Baráttueiningar). Hins vegar skal gert ráð fyrir að pólitískirflokkar, samtök eða félög sem markað hafa sína stefnu varðandi þjóðmál, jafnt sem alþjóðarmál í öllum meginatriðum, gerist aðilar að „ Baráttueiningu 1. maí 1978 " sem heild og taki jafnan þátt í öllum deildum hennar.

Til enn frekari útskýringar á þessari tillögu er því um tvenns konar möguleika til þátttöku að ræða. Annars vegar aðild að "Baráttueiningu 1. maí 1978 " sem heild og jöfn þátttaka í öllum deildum. Hins vegar aðild að hinum ýmsu deildum en ekki aðild að "Baráttueiningu 1. maí 1978 sem heild. Enda skal tegund aðildar sérhfeers
ildar sérhvers aðila sem um ræðir greinilega tilgreind í öllum prentuðum auglýsingum og fréttatilkynningum á vegum "Baráttueiningar 1. maí 1978" og jafnframt í málgögnum aðila hennar.

KFÍ/ML vill ennfremur gera það að tillögu sinni að opinn sé möguleiki fyrir því að fjölga deildum, komi fram óskir um það nægilega snemma á undirbúningstíma aðgerðanna. Sameiginlegur fundur aðila "Baráttueiningar 1. maí 1978" og aðila hinna ýmsu deilda skal taka afstöðu til slíkra óska. Fundurinn skal hafa til viðmiðunar að ósk um nýja deild stangist ekki á við grundvöll annara deilda eða útiloki þátttöku einhvers aðila "Baráttueiningar 1. maí 1978".

KFÍ/ML vill árétta að hann leggur þessar tillögur fram til umræðu auk tillögunnar um grundvöllinn sem fer hér á eftir. Það er eindregin von KFÍ/ML að sem flestir og helst allir þeir aðilar sem fá þetta bréf í hendur sjái sér fært að senda fulltrúa sinn á fundinn 19. mars og komi þar fram með hugmyndir sínar um samfylkingu 1. maí 1978. Það er umræðan sem er undirstaða hvers konar samstöðu sem um slíka samfylkingu kann að skapast.

Með baráttukveðjum.
Framkvæmdanefnd miðstjórnar Kommúnistaflokks Íslands marxista-lenínista.

## Tillaga að grundvelli Baráttueiningar 1. maí 1978

Á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsins fylkir baráttufús verkalýður Reykjavíkur liði undir merkjum Baráttueiningar 1. maí 1978. Aðstandendur Baráttueiningar leggja áherslu á að eining, samstaða og skipulagning verkalýðsins sjálfs á grundvelli stéttabaráttunnar er grundvöllur þess að hægt sé að hnekkja kjaraskerðingarsókn auðvaldsins og ríkisvalds þess. En í viðleitni sinni til að skapa þessa einingu hefur verkalýðurinn hvað eftir annað rekið sig á vegg þeirrar stéttasamvinnu sem forysta ASÍ rekur. Það er stéttasamvinnan sem er sundrungaraflið í verkalýðshreyfingunni í dag og þeir menn sem hana reka eiga ekki skilið traust verkalýðsins. Þeir munu svíkja hann með þjónkun við auðvaldið eins og svo oft áður. Þess vegna er brýn nauðsyn verkalýðnum í dag að taka höndum saman í baráttunni gegn stéttasamvinnu ASÍ forystunnar og í baráttu fyrir því að gera verkalýðsfélögin að raunverulegum baráttutækjum. Það er kominn tími til að verkalýðurinn taki stjórn stéttarfélaga sinna í sínar eigin hendur og hrekji sundrungaröflin svikula og einræðissinnaða "verkalýðsforingja" af höndum sér.

Ennfremur leggjum við áherslu á að ekki verði hvikað frá þeirri stefnu að greidd verði lífvænleg laun fyrir fjörutíu stunda vinnuviku. Það er lífsnauðsyn verkalýðnum, vegna kjara-, félagslegra-, og heilbrigðissjónarmiða, að geta framfleytt sér á dagvinnunni einni saman. Þetta er þannig einnig krafa um mannréttindi verkalýðnum til handa, réttinn til hvíldar, réttinn til samvista við fjölskyldu og réttinn til baráttu. Forysta ASÍ hefur vegna stéttasamvinnu sinnar við auðvaldið ekki megnað að leiða neina baráttu fyrir þessari kröfu en í þess stað stefnt í þveröfuga átt, til meiri þrældóms, lengri vinnudags og aukins álags á verkalýðinn. Sem dæmi um þessa stefnu er að verkalýðsforystan styður aukið vinnuálag í formi bónus- og akkorðskerfa og gengur út frá því í samningum að verkfólk eigi að lifa af yfir- og næturvinnu. Þetta sannaðist berlega í ríkisstjórnartíð hinna svo kölluðu "verkalýðsflokka". Verkalýðurinn verður því að taka upp einarða baráttu gegn þessari stefnu og má ekki láta glepjast af skrumáróðri "verkalýðsflokkanna" sem miðast aðeins að því að setjast í ríkisstjórnarstólana að nýju. Breytum verkalýðshreyfingunni í baráttutæki í höndum verkalýðsins sjálfs.

Auk þessara brýnustu baráttumála verklýðsins leggur Baráttueining 1. maí 1978 áherslu á baráttuna fyrir úrsögn Íslands úr NATÓ ogbrottrekstri hersins af íslenskri grund. Við teljum að vera bandaríska hersins á Miðnesheiði og aðildin að NATÓ sé ógnun við sjálfstæði íslensku þjóðarinnar og jafnframt ógnun við hlutleysi og öryggi hennar komi til heimsátaka. Íslensk alþýða hefur ekki áhuga á því að verða fallbyssufóður stórveldanna. Nátengd þessari baráttu er baráttan gegn allri heimsvaldastefnu. Til að ná markmiði sínu verður íslensk alþýða að sýna fulla samstöðu með þjóðfrelsisöflum heimsins í baráttunni gegn heimsvaldastefnu hvarvetna og í hverskonar mynd sem hún birtist

Baráttueining 1. maí 1978 byggir afstöðu sína til jafnréttis kynjanna á því að kvennabaráttan sé stéttabarátta. Nauðsynlegt er að skapa samstöðu verkakvenna og verkakarla í stéttabaráttunni Það misrétti sem hér ríkir til starfs og launa er auðvaldinu einu í hag. Brýnasta hagsmunamál verkakvenna í dag er launajafnrétti og atvinnuöryggi og liður í þessu er baráttan fyrir nægri og ókeypis dagvistun.

Verkakonur hafa löngum verið láglaunahópur og búið við lítið atvinnuöryggi. Þessi sérstaka kúgun á verkakonum er bein árás á verkalýðsstéttina sem heild Því verður hún að standa saman gegn þessu. Verkakarlafélög verða því að styðja eindregið baráttu verkakvennafélaga fyrir jafnrétti á vinnumarkaðinum.

Barátta námsmanna fyrir jafnrétti til náms og bættum kjörum er miklvægur liður í framsækinni baráttu sem beinist gegn arðráni og kúgun auðvaldsins. Vegna launamisréttisins sem ríkir í þjóðfélaginu eru námslán nauðsynleg og skilyrði fyrir jafnrétti til náms. Þessvegna styður Baráttueining 1. maí 1978 eindregið baráttu náumsmanna fyrir bættum kjörum og gegn vísitölubindingu námslána og fyrir því að námslán nægi til framfærslu.

Vegna þessarar afstöðu sinnar leggur Baráttueiningáherslu á að skapa sem víðtækasta einingu um aðgerðir sínar 1. maí 1978. Í þessu augnamiði gefur Baráttueining kost á afmarkaðri þátttöku í aðgerðum sínum og er henni því skipt í sérstakar deildir. Þannig þurfa þeir aðilar sem taka aðeins þátt í einstökum deildum hennar ekki að taka afstöðu til allra þeirra fjölmörgu baráttumála sem Baráttueining 1. maí 1978 ber fram. Þannig er þeim aðilum sem byggja baráttu sína á afstöðu til afmarkaðar baráttumála gert kleift að taka þátt á grundvelli þeirrar afstöðu einnar.

Deildir Baráttueiningar 1. maí 1978 eru:

Deild um faglega baráttu.
Aðalkjörorð:
Gegn stéttasamvinnu ASÍ-forystunnar -Gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum !
Lífvænleg laun fyrir fjörutíu stunda vinnuviku !
Eining og starf á grundvelli stéttabaráttunnar !
Fullan verkfallsrétt til handa opinberum starfsmönnum !
Önnur kjörorð.

Deild um jafnréttisbaráttu kynjanna.
Aðalkjörorð:
Kvennabarátta er stéttabarátta!
Jafnrétti og samstaða verkakvenna og verkakarla!
Jafnrétti til starfs, náms og launa!
Næga og ókeypis dagvistun fyrir öll börn!
Önnur kjörorð.

Deild um hagsmunabaráttu námsmanna.
Aðalkjörorð:
Jafnrétti til náms!
Gegn vísitölubindingu námslána!
Námslán nægi til framfærslu!
Samstaða-námsfólk-vinnandi alþýða!
Önnur kjörorð.

KFÍ/ML lýsir eftir breytingar- og viðbótartillögum við þessa tillögu sína.

Þetta bréf er sent eftirtöldum: Eik (ml), Fylkingunni, Rauðsokkahreyfingin, SÍNE, Verðandi, Stúdentaráð, LÍM, Samtökum herstöðvaandstæðinga, BGH, Palestínunefnd, Grænlandsfélaginu, Róttæka félaginu, Dagvistunarsamtökum, Baráttuhópi Dagsbrúnarmanna, INSÍ, Hjúkrunarnemum Póstnemum, Vélskólanemum, Nýrri hreyfingu, Æskulýðsnefnd Alþýðubandalagsins.

## Verkafólk ber enga ábyrgð á kreppu auðvaldsins

Framhald af forsíðu

að borgað verði eftir samningum. Við vorum langt frá því takmarki að lifa af 8 stunda vinnudegi með sólstöðu samningunum, sem borgara stéttin ætlar sér að rifta með einfaldri lagasetningu Alþingis Forysta verkalýðshreyfingarinnar er tvístígandi, enda þjónar hluti hennar hagsmunum atvinnurekenda og pólitískra flokka þeirra. Þrátt fyrir að róttækari hluti verkalýðshreyfingarinnar hafi fengið það samþykkt í orði kveðnu á síðasta þingi Verkamannasambands Íslands að tilhögun baráttuaðferða og kjarakröfur skyldu mótaðar á vinnustöðunum í samráði við forystumennina, hefur það ekki enn orðið þannig í reynd. Á meðan svo er, finnst hinum almenna félaga í Alþýðusamtökunum sem svo, að hann skipti nærfellt engu máli, þeir á skrifstofum verkalýðsfélaganna taki allar ákvarðanir án tillits til hans vilja.

Þetta ástand er að sjálfsögðu afleitt, og gerir það að verkum að verkalýðshreyfingin gengur veikari út í slaginn við atvinnurekendur en var t.d. baráttuár skæruverkfallana 1942.

Tvennt er því ákaflega mikilvægt innan verkalýðshreyfingarinnar í dag, baráttan fyrir auknu lýðræði og eflingu þeirrar skoðunnar að verkalýðshreyfingin getur aldrei tekið neina ábyrga afstöðu með efnahagsvandræðum þeim sem framleiðsluskipulag auðvaldssins getur af sér. Hið sósíaliska þjóðskipulag sameignarframleiðslunnar er framtíðarmarkmið verkalýðshreyfingarinnar, því megum við aldrei gleyma.

## Stríðið í Eþíópíu: Sovésk heimsvaldastefna

Framhald af baksíðu

dæmt íhlutun Sovétríkjanna í málefnum Afríku og samstaðan gegn yfirgangi þeirra vex. Sovéskir hernaðarráðgjafar hafa verið reknir frá Súdan, Egyptalandi og Sómalíu. Ráðamenn í m. a. þessum ríkjum hafa mótmælt afskiptum Sovétríkjanna af Eþíópíu og ásælni risaveldanna á Afríkuhorninu,: Nígería, Gínea, Ghana, Gason, Súdan, Zaire, Uganda, Máritanía, Grænhöfðaeyjur, Kameroon Fílabeinsströndin, Líbería, Sómalía og Egyptaland.

### Afstaða Ísraela.

Ísraelstjórn hefur veitt hernaðaraðstoð til Eþíópíu. Áhugamál Síonistanna er að fá því framgegnt að Rauðahafið verði ekki „ arabískt innhaf " og því styðja þeir öll öfl í Eþíópíu sem eru fjandsamleg aröbum. Ísrael hefur ljáð Eþíópíumönnum flugvélar, tæknimenn og sérfræðinga, viðgerðarsveitir auk ýmisskonar handvopna. E innig senda þeir Bandarískar napalm og flísasprengjur til að kasta á íbúa frelsaðra þorpa í



Erítreu.

Fyrir þrýsting frá Sovétríkjunum hefur Ísraelsmönnum nú verið vísað úr Eþíópíu. Þeir þykja víst ekki góður bandamaður í áróðursblekkingum Rússa.

# Stórsigur vinstrimanna í Háskóla Íslands

Í síðustu viku voru haldnar kosningar í Háskóla Íslands til stúdentaráðs og háskóla-ráðs. Eins og fram hefur komið í fréttum unnu vinstrimenn mjög glæsilegan sigur í þessum kosningum fengu 8. kjörna menn 815 atkv. ( 57,64% ) í stúdentaráð en Vaka fekk aðeins 5. kjörna menn 599 atkv. (42,36%)

Það sem vakti athygli að þessu sinni var ekki síst það, að kjörsókn var meiri en í síðustu kosningum og fylgi vinstri manna einnig meira.

Er enginn vafi á því að þessum aukna áhuga á málefnum stúdentahreyfingarinnar og auknu kjörfylgi vinstri hreyfingarinnar má þakka því öfluga samstarfi við deildafélög skólans, sem stjórn SHÍ hefur lagt svo ríka áherslu á að efla og styrkja.

## Um hvað var kosið?

En hvað var það svo sem barist var um? Í stórum dráttum var vitaskuld kosið á milli íhaldsaflsins í skólanum og breiðfylkingar félagshyggjumanna, vinstrimanna.

"Vaka" félag hægrimanna samanstendur af heimdellingum og öðru stuttbuxnaliði Sjálfstæðisflokksins. Listi vinstrimanna samanstendur af samfylkingu stuðnings og flokksbundinna manna úr Framsóknarflokknum, Alþýðuflokknum, Alþýðubandalaginu, Frjálslyndum og vinstrimönnum, félögum úr Fylkingunni og Kommúnistaflokki Íslands.

Slík samfylking sem þessi er algert einsdæmi í heiminum og eins og gefur að skilja þá gætir ýmissrar skoðanabaráttu meðal vinstrimanna innbyrðis. T.d. telur Kommúnistaflokkurinn Framsóknarflokkinn vera fullt eins íhaldsaman eins og Sjálfstæðisflokkinn. En miklu skiptir að ná þó fram breiðfylkingu um það að berjast gegn stærsta og því hættulegasta flokki borgarastéttar landsins.

Þau málefni, sem helst var barist um voru lánamálin, fjöldatakmörkunarmálin (Numerus Clausus), málefni Félags stofnunar stúdenta, menntamálapólitík og fleiri mál beint eða óbeint tengd þessum málum.

Menn virðast á einu máli um að ástæður þess, að Vaka tapaði fylgi í þessum kosningum, þrátt fyrir þá aðstöðu sem sem stjórnarandstaða á að geta veitt, hafi verið þær helstar, að afar fátt nýtt er lagt til hagsmunabaráttunnar af þeirra hálfu. Þá hefur framkoma þeirra í stúdentaráði upp á síðkastið og á framboðsfundi kosninganna verið sérlega ómálefnaleg og lágkúruleg. Enda féll dómur kjósenda þungt yfir fulltrúa auðstéttarinnar innan Háskólans.

## Klofningsbrölt

Stéttabaráttan sagði frá klofningsbrölti "Eikara" á ráðstefnu vinstrimanna sem haldin var 12. feb. s.l..

Framhald þess máls var svo að 28. feb. sögðu tveir stúdentaráðsliðar (félagar í Eik (ml)) sig úr stúdentaráði.

Var sú afsögn grundvölluð á þeim ágreiningi sem fram kom á ráðstefnunni 12. feb..

Gilti úrsögn þeirra tveggja frá 6. mars. Ágreiningurinn snerti samkvæmt dreifiriti "Eikaranna" a) afstöðuna til ríkisvaldsins b) baráttuaðferðir c) upphlaup trotskíista.

Nú má spyrja hvort þessi ágreiningur hafi verið ræddur á meirihlutafundum vinstrimanna í vetur. Nei ekki aldeilis. Ágreiningurinn var dreginn fram á kosningaráðstefnunni sjálfri en ekki fyrr.

"Eikarar" hefðu auðvitað átt að færa þessi ágreiningsmál í tal og til umfjöllunar strax og þau komu upp. Eðli samstarfs vinstrimanna byggist m.a. á því að öll ágreiningsmál séu dregin fram í dagsljósið, rædd og útkljáð.

Það er alger forsenda ef koma á í veg fyrir sundrungu.

Dreifirit "Eikaranna" er birt hér í blaðinu svo lesendum gefist kostur á að kynna sér nákvæmlega hvers konar klofningsstarf þeir eru að vinna.

Í lið 1. segir þar að "Eikarar" krefjist að rétt afstaða sé tekin til eðlis ríkisvaldsins og eiga þeir þá væntanlega við að ríkisvaldið geti ekki verið annað en ríkisvald auðvaldsins (þ.e. auðsins og þeirra sem hann eiga) í auðvaldsþjóðfélaginu. Og þar sem vinstri samfylkingin hefur ekki þessa réttu afstöðu, þá eru "Eikararnir" farnir.

En í lið 3. skýtur heldur betur skökku við. Þar er krafist brottreksturs trotskíista fyrir að "kljúfa" samfylkingu námsmanna með því að bera kröfuspjald með áðurnefndri afstöðu "Niður með ríkisvald auðsins".

## Auðir kosningaseðlar

Í framhaldi af þessu skoruðu "Eikarar" á stúdenta að skila auðu í kosningunum. Árangur af þeim áróðri varð broslega lítill því aukning auðra seðla frá því í kosningunum í fyrra er sem svarar atkvæðum "Eikaranna" innan Háskólans (5-10atkv.).

En vinstrimenn juku við sig kjörfylgi og eins jókst kjörsóknin í heild. Er því augljóst að starf og stefna samfylkingarinnar á fylgi að fagna.

Vinstrimaður í Háskólanum.

# Dreifirit EIK ml í HÍ

SKILUM AUÐU Í STÚDENTA-RÁÐSKOSNINGUNUM !

Vegna kosninganna til stúdentaráðs HÍ, vilja félagar og stuðningsmenn EIK(ml) í háskólanum láta það koma fram að þeir styðja hvorki lista vinstri mann né VÖKU, nú í þessum kosningum. Það þarfnast nánari útskýringa hvers vegna við styðjum ekki lísta vinstri manna.

Á vinstri ráðstefnunni 12. febrúar sl. kom fram skarpur ágreiningur milli kommúnista annars vegar og trotskista og leiðandi Alþýðubandalagsmanna hins vegar.

Ágreiningurinn stóð einkum um eftirfarandi: a) afstöðuna til ríkisvaldsins, b) hvernig heyja skuli baráttuna, c) hvaða augum skuli líta upphlaupsaðgerðir trotskista í sameiginlegum aðgerðum námsmanna.

Við teljum að afstaða vinstri meirihluta til þessara þriggja atriða hafi verið röng og leitt til þeirra ósigra sem námsmannahreyfingin hefur beðið að undanförnu. Um þau gerum við því ekki málamiðlanir.

Þessi atriði er rétt að skýra betur:

1. Afstaðan til ríkisvaldsins. Forysta vinstri manna neitar að læra af þeim hrakförum er við fórum er semja átti við ríkisvaldið um námslán. Eðli ríkisvaldsins er hið sama, hvortsem Sjálfstæðisflokkurinn eða Alþýðubandalagið sitja í stjórn. Ríkisvaldið hafnar rettlátum kröfum okkar, ef við höfum ekki sterka baráttustöðu, sem byggi á virkni þorra námsmanna. En forkólfar vinstri manna skilja þetta ekki og halda áfram uppteknum hætti, að höfða til þingmanna "verkalýðsflokkanna", í stað þess að fara leið fjöldabaráttu (það gæti tekið fimmtíu ár sagði einn þeirra). Dæmi um þingmannatrúna: Í leiðara Stúdentablaðsins númer 1 1978, "lofar" ritstjórinn (Alþýðubandalagsmaður) því, að við námsmenn kjósum "verkalýðsflokkana" fyrir góðan "stuðning" fulltrúa þeirra við námsmenn. En það var á valdatíma vinstri stjórnarinnar sem ríkisvaldið kvartaði fyrst undan "of þungri byrði sem námsmenn væru og krafðist "leiðréttingar". Ef við efnum "loforð" ritstjórans, þá erum búin að gleyma þessu.

2. Baráttuaðferðir. Við teljum reynsluna hafa sýnt að traust til þingmanna færir okkur ekki spor fram á við, hvort sem þingmennirnir eru í Sjálfstæðisflokknum, Framsóknarflokknum eða Alþýðubandalaginu. Og af þessu viljum við læra. Við viljum því að starf í deildafélögum verði höfuðstarfið og að unnið verði markvisst að því að gera þau að virkum baráttutækjum, bæði í sameiginlegum hagsmunamálum stúdenta svo og í málum innan einstakra kennslugreina. Lögð verði áhersla á að fylkja námsmönnum saman í baráttu fyrir betri námslánakjörum. Forysta vinstri manna hefur gersamlega látið undir höfuð leggjast að byggja upp slíkt starf, heldur hefur hún kæft baráttuvilja stúdenta með nefndamakki, trú á þingmenn og tilgangslausum þrætum við VÖKU:

3. Upphlaupa- og klofningsaðgerðir trotskista. Vinstri forystan hefur látið trotskista komast upp með það að setja fram sína einkapólitík í Sameiginlegum aðgerðum stúdenta og vinna þannig markvisst að því að sundra námsmönnum. Dæmi um þetta eru tilraunir trotskista til að merkja sér aðgerðirnar á Austurvelli 8. des. sl. með vígorðum eins og "Niður með ríkisvald auðsins". Þetta vígorð féll algerlega utan ramma aðgerðanna, og höfðaði ekki nema til lítils hluta námsmanna og er því sundrandi. Við kröfðumst þess að vinstri meirihlutinn fordæmdi svona aðgerðir en því var hafnað.

Af framansögðu má vera ljóst að vinstri menn eru enginn valkostur í þessum kosningum. Samstarfsgrundvöllur okkar og vinstri meirihlutans er ekki fyrir hendi að þessu sinni, því miður. Og þar sem VAKA er enginn valkostur og baráttustefna hefur ekki hlotið hæfilegan hljómgrunn ennþá, þá er enginn annar valkostur fyrir hendi en að skila auðu í kosningunum.

GERUM DEILDARFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM.
SKILUM AUÐU Í KOSNINGUNUM !

-/ félagar og stuðningsmenn EIK (ml) í HÍ.

# Herstöðvaandstæðingar Suðurnesjum




Skemmtikraftar:

Gísli Rúnar.
Arnar Jónsson.
Hjalti Rögnvaldsson.
Kór Alþýðumenningar.
Megas.
Sigurður Pálsson.
Hjördís Bergsdóttir.
Söngsveitin Bóbó.
o. fl.

Lesið verður úr nýlegri skýrslu Ágústar Valfells þar sem m.a. kemur fram um hugsanlegar afleiðingar kjarnorkuárásar á Keflavíkurflugvöll.

Ræður og ávörp flytja:
Jón Böðvarsson.
Sigríður Jóhansdóttir.
Sigurður J. Sigurðsson.
Jóhann Geirdal.

Kynnir Pétur Gunnarsson.

Sætaferðir ve[rð]a frá BSÍ kl. 13.00 og ekið verður í [g]egnum Hafnarfjörð.
Fjölmennið.

Herstöðvaandstæðingar Suðurnesjum.

# Vaknið og syngið

Afkoma og lífshættir Bergerfjölskyldunnar mótast af ástandi offramleiðslukreppunnar (1930-1940).



Framhald af baksíðu.

Gyðingafjölskyldan Berger er eitt af fórnarlömbum þessa ástands. En innan hennar eru gerólíkar skoðanir bæði um eðli þessa ástands og hvernig eigi að bregðast við því. Má segja að sú hugmyndafræðilega barátta sem ríkir innan Bergerfjölskyldunnar sé endurspeglun á þeirri hugmyndafræðilegu baráttu sem á sér stað milli stéttanna í þjóðfélaginu. T.d. hefur Jakki (Leifur Ísaksson) skoðanir verkalýðsins, Bessie (Guðríður Guðbjörnsdóttir) skoðanir borgarastéttarinnar (þó hún eigi annars ekkert sameiginlegt með borgurunum) Morty frændi (Bjarni Ingvarsson) er fulltrúi verslunarauðvaldsins, Ralph (Viðar Eggertsson) og Hennie ( Svanhildur Jóhannesdóttir) fulltrúar ungu kynslóðarinnar, Myron eiginmaður Bessiear (Guðbjörn Valdimarsson) fulltrúi smáborgaranna o.s.frv.

Þannig hefur leikurunum en þeir eru auk áðurnefndra Konráð Þórisson, Finnur Magnússon og Einar Torfason, ásamt leikstjóranum Hauki J. Gunnarssyni og öðrum tæknimönnum tekist að bregða upp mynd þjóðfélagsbaráttunnar innan veggja mjög eðlilega hannaðrar og vel upplýstrar leikmyndar.

Það er full ástæða til að hvetja fólk til að sjá þetta leikverk. Leikararnir eru flestir nýútskrifaðir úr Nemendaleikhúsinu, ungir, upprennandi og lítt þekktir. Enginn einn þeirra skarar fram úr hinum hvað leik snertir heldur má segja að hlutverkin séu öll tiltölulega jöfn og koma vel til skila.

Gott fólk, förum að ráðum Jakka og vöknum og syngjum.

Dufþakur

# Metorðastrit Alþýðubandalagsins

Það fara ekki alltaf saman hagsmunir flokksins og þeirra sem hann þykist berjast fyrir. Alþýðubandalagið er nokkuð gott dæmi um þetta. Það auglýsir sig sem flokk verkalýðsins og málsvara verkalýðshreyfingarinnar. En þegar til kastanna kemur er markmið þessa stjórnmálaflokks hið sama og annarra borgarlegra flokka, nefnilega metorðastrit og stöðuveitingar innan ríkisvaldsins. Verkalýðsnafnbótina notfærir hann sér aðeins til framdráttar í eiginhagsmunaskyni. Alþýðubandalagið notar ekki áhrif amátt sinn til að hvetja verkafólk til baráttu eða skipuleggja baráttu þess gegn kúgun ríkisvaldsins og auðvaldsþjóðfélagsinu í heild. Við skulum nú athuga nokkur dæmi þessu til staðfestingar.

Í september 1976 voru sett á bráðabirgðalög, sem lögfestu samninga sjómanna, sem sjómenn um land allt höfðu hafnað. Á svívirðilegan hátt var þannig ráðist á rétt verkalýðshreyfingarinnar til að ákveða sjálf kaup sitt og kjör. En hver voru viðbrögð hins verkalýðssinnaða Alþýðubandalags við þessu? Það hvatti ekki sjómenn til að berjast gegn þessum ólögum, né heldur gerði það minnstu tilraun til að skipuleggja einhverja baráttu gegn þeim. Þvert á móti. Alþýðubandalagið lét sér nægja að biðja sjómenn að minnast þess, hvaða ríkisstjórn hefði sett á þessi bráðabirgðalög, þegar næst kæmi til kosninga. Þannig átti að notfæra sér óánægju sjómanna til atkvæðasmölunar.

Nærtækara dæmi er líka hægt að taka. Hin nýsettu bráðabirgðalög, sem skerða vísitöluuppbótina hjá þeim lægstlaunuðu um helming. Alþýðubandalagsforkólfarnirr á þingi (þar á meðal verkalýðsleiðtoginn Eðvarð Sigurðsson) hömruðu alveg sérstaklega á því, að þessi lög sýndu fram á nauðsyn þess að skipta um ríkisstjórn. Það sér náttúrlega hver maður hvað liggur á bak við slíkar fullyrðingar. Alþýðubandalagið ætlar ser í ríkisstjórn næst. Það skiptir þá engu máli með hverjum slíkt samstarf ætti að vera. Þess vegna létu þeir sér vel líka að verma ráðherrastólana við hlið Geirs Hallgrímssonar eða Matthíasanna beggja -þessara óvina launþegasamtakanna númer eitt tvö og þrjú. Á það má minna, að framkomnar tillögur á ráðstefnum og þingum Alþýðubandalagsins, þess efnis, að flokkurinn færi ekki í ríkisstjórn með Sjálfsstæðisflokknum eða Framsókn, hafa verið illa þokkaðar af forystumönnum þessa umrædda verkalýðsflokks og þeim stungið undir stól.

Margt óflokksbundið verkafólk spyr oft á tíðum hvort hinir (þ.e. þeir þingflokkar, sem ekki eru við stjórn) séu nokkuð betri. Það er rétt, þeir eru ekki hótinu betri, þegar á á að herða. Í tíð síðustu vinstristjórnar var vísitölunni kippt úr sambandi og gengisfelling framkvæmd - þvert ofan í fögur fyrirheit málefnasamningsins margumrædda. En háværi mótmæli frá verkalýðshreyfingunni heyrðust þá ekki .

Það er og verður enginn sigur í hagsmunabaráttu verkalyðsins þó þingflokkar þeir, sem hvað mest ítök hafa innan verkalýðshreyfingarinnar komist í fína aðstöðu innan ríkisvaldsins. Ríkisvaldið í auðvaldsþjóðfélagi er og verður tæki borgarastéttarinnar til að kúga vinnandi fólk og skerða kjör þess og hagsmuni sem mest má verða. Traust sitt getur verkafólk því ekki lagt á einhverja framagosa; það verður þvert á móti áð treysta á eigin krafta.

# Aronskan selur sjálfstæðið

Hópur braskara með Aron Guðbrandsson, kauphallarhéðinn í fararbroddi berjast fyrir því innan Sjálfstæðisflokksins og á síðum málgagna hans, að Nato og bandaríski herinn borgi ríflega fyrir hernaðaraðstöðu sína hér á landi. Þeir leggja til að herinn leggi fram væna fúlgu í ríkiskassan ár hvert og standi þannig verulega straum af útgjöldum til skóla, heilbrigðismála og vegalagningar þjóðarinnar. Það þarf engan vinnandi mann með snefil af heilbrigðri hugsun að undra, að önnur eins meindýr á þjóðar líkamanum eins og kauphallarbraskarar komi fram með slíkar skoðanir. Braskarinn er vanur að kaupa og selja til að græða á því á kostnað annara, og skiptir þá engu máli hvort um er að ræða efnahagslegt sjálfstæði þjóðarinnar, bara ef hann græðir á því í skamman tíma. Enn sem komið er, er efnahagskerfið hér að mestu leyti í höndum íslenska auðvaldsins, þrátt fyrir geigvænlegar skuldir þess við útlönd. 12 % þjóðarteknanna fara í afborganir á vöxtum af erlendum lánum ár hvert, og alltaf sekkur auðvaldið dýpra í skuldasúpuna. Þetta hefur haft þær afleiðingar að erlendir auðhringir hafa átt hægara með að efla ítök sín í efnahagslífinu hér á landi, undanfarin ár. Þeir setja ráðamönnum borgarastéttarinnar hér á Íslandi, þá afarkosti að fá að nytja vatnsorku þjóðarinnar og vinnuafl á lægsta verði er þekkist í Evrópu. Skiptir þá engu máli hverjir sitja í ráðherrastólunum fyrir auðvaldsbúskapnum, Magnús Kjartansson stóð sig með prýði er hann hafði forgöngu um samningana við Union Carbide um byggingu járnblendiverksmiðjunnar. Sýnnt er að sú verksmiðja kemur til með að verða rekin með bullandi tapi, árin eftir að hún verður tekin í notkun. Jafnvel ráðamenn borgarastéttarinnar viðurkenna þetta í málgögnum sínum, samanber greinar í stjórnarmálgagninu Tíminn. Vinnandi fólk er ber uppi skattana til ríkissjóðs kemur til með að bera það tap með aukinni skattbyrði. Þá skulum við hugsa hlýlega til ráðherrasósíalistana úr Alþýðubandalaginu, er heiðurinn af járnblendiverksmiðjunni eiga skilið. En Aron og hinir braskararnir í Sjálfstæðisflokknum ætla að leysa vandann er auðvaldskreppan skapar. Ameríski herinn á að borga. Efnahagskerfið á Íslandi á ekki að miðast við það að hér búi þjóð er ræður yfir sjálfstæðu efnahagskerfi og í beinu framhaldi af því sjálfsákvörðunarrétt til annara ríkja og þjóða. Við þurfum ekki að líta langt aftur til að sjá hverjar afleiðingar efnahagslegt ósjálfsstæði hafði fyrir alþýðu þessa lands. Danskir auðmenn mergsugu atvinnuvegi þjóðarinnar öldum saman réðu efnahagslífinu líkt og þeir gera enn þann dag í dag á Grænlandi. Kauphallarbraskarar vilja þetta, eini munurinn er sá að nú eiga Ameríkumenn að leika aðalhlutverkið og taka til við að mergsjúga íslenska alþýðu. Sagan hefur ávallt leitt þetta í ljós, við þurfum ekki annað en að líta á efnahagslegt sjálfstæði Spánar og Chile í dag, svo að dæmi séu tekin úr nútímanum. Sumir menn vilja þjóð sinni svo illt, ef þeir aðeins geta haft peningalegan ábata af, þeir vilja hneppa okkur í nýlendufjötra þar sem þeir stjórna lýðnum í umboði erlendra auðhringja. Slíkar yrðu afleiðingarnar ef hugmyndum Aronskunnar yrði leyft að

Framhald á síðu 2.

# Takið þátt í námsfundum Kommúnistaflokksins



V. I. LENIN.

Þeir sem hafa sérstakan áhuga á að taka þátt í námstarfi Kommúnistaflokks Íslands ML skal bent á að þar er bæði um að ræða almennt pólitískt nám og kynningu á starfi og stefnu flokksins.

Saga verkalýðshreyfingarinnar ætti að vera öllum vinstrimönnum áhugavert umfjöllunarefni, en auk þess er fjallað um pólitíska flokka af öllum gerðum, auk efnis eins og hagfræði, heimspeki, ríkiskerfið o.s.frv..

Leitast er við að fjalla um okkar þjóðfélagslega veruleika á sem ljósastan hátt og sleppa engum þáttum úr sem viðkoma okkar daglega umhverfi.

Kommúnistaflokkurinn álýtur námstarfið gegna mikilvægu hlutverki til að efla umræður um þjóðfélagsmál og gera þær markvissari. Allir þeir sem áhuga hafa á að kynna sér eða taka þátt í námsfundum Kommúnistaflokksins er bent á að hafa samband við bókabúðina Rauðu Stjörnuna , sími 27810.

Þeim sem taka vilja þátt, er bent á að með því takast þeir ekki á hendur neinar skyldur eða skuldbindingar.

Eflum umræður og fræðslu um verkalýðs-og félagsmál, tökum þátt í námstarfi Kommúnistaflokks Íslands ML.

1. Almennt um sögu og markmið verkalýðsstéttarinnar. (Lesefni: Kommúnistaávarpið eftir Karl Marx og Friðrik Engels)

2. Umræða um heimspeki og hugmyndafræði. (Díalektíska og sögulega efnishyggjan eftir Stalín)

3. Efnahagsmál og hagfræði. (Laun, verð og gróði eftir Karl Marx)

4. Ríkisvaldið, stofnanir þess, kosningar og valdkerfi, ríkisvald sósíalismans og umræða um verkalýðsríkið. (Ríki og Bylting eftir Lenín)

5. Verkalýðsflokkurinn, verkalýðsfélögin og önnur samtök alþýðunnar. (Flokkurinn - bæklingur KSML)

6. Starf og stefna marxista - lenínista. (Hvað vill Kommúnistaflokkur Íslands ML)

KOLANÁMUMENN Í USA BERJAST ENN

framhald af forsíðu.

ars er krafist bættrar heilbrigðis-og öryggisþjónustu, lífeyris, ellilauna og réttar leggja niður vinnu þegar á skortir að viðeigandi aðbúnaður og öryggisatriði séu til staðar.

Margvíslegum aðferðum er beitt til að þvinga verkfallsmennina. Þeir fá ekki afgreidda matarmiða á atvinnuleysisskrifstofunum og fjárhagslegur stuðningur við þá í þessu langa verkfalli er lítill.

Stuðningsframlög hafa þó borist m.a. gáfu bændur mat til verkfallsmanna.

Reynt er að ala á sundrungu meðal verkalýðsins og reiði í garð námamanna, með því að kenna verkfalli þeirra um er önnur fyrirtæki í iðnaði loka eða fækka starfsliði. Þá er að venju farið á stað með kommúnistagrýluna og verkfallsmenn ofsóttir fyrir að vera kommúnistar.

Samstaða verkamannanna um að hunsa skipunina um að snúa aftur til vinnu varð alger. Af 170 þúsund manns mættu færri en 100 til vinnu.

Ummæli eins námaverkamannsins í viðtali við bandaríska vikublaðið The Call, lýsa vel viðhorfi félaga hans til Taft-Hartley laganna.

"Allir viljum við frjálsa samninga og lýðræðislegar kosningar. En ef menn kjósa ekki samkvæmt áætlun eru þeir sendir til vinnu með vopnavaldi".

(Lauslega þýtt úr Call, málgagni marxista-lenínista USA)

SJÁUM "FANSJEN"

framhald af baksíðu.

skipta upp jarðnæði milli bændanna og sat þar marga fundi. Leikritið er því skýrsla um lífið - í þessu eina þorpi á tímum byltingarástands. Hinton segir í formála, að orðið fansjen merki bókstaflega að snúa sér, bylta um. En í munni hundruð miljóna kínverskra bænda, sem ýmist áttu engar jarðir sjálfir eða aðeins litla skika, merkti fansjen að rísa upp, kasta af sér oki landeigenda, eignast jarðir, búfénað, verkfæri og hús.

En þetta merkti líka annað og miklu meira. Það merkti að byrja líf í nýjum heimi.

Þetta er því sagan af því, hvernig bændurnir í þorpinu Tjantsjúang byrjuðu að byggja nýjan heim.

Frásögn Hintons þó ýtarleg sé og læsileg, er að mestu bundin við reynslu eins manns í einu litlu þorpi í Kína. Leikrit Hare sem er fyrst og fremst örstutt samantekt á verki Hintons getur því aðeins gert kínversku byltingunni pínulítil skil. Sjálf segja nemendurnir um leikverkið: "Leiksýning okkar gerir heldur enga tilraun til að sýnast raunsæ túlkun á þessum atburðum - til þess vitum við of lítið um Kína".

En þó svo leikritið sýni aðeins brotabrot af öllu hinu víðlenda og fjölmenna Kína þá sýnir það atburði sem voru gerast vítt og breitt um landið, aðeins á mismunandi máta og við ólíkar aðstæður.

Leikstjóri og þýðandi verksins er Bríet Héðinsdóttir.

Frumsýning leikritsins er miðvikudaginn 15. mars og þar næst fimmtudaginn 16. mars. Sýningar hefjast kl. 20.30.

Stéttabaráttan hvetur alla þá sem vettlingi geta valdið til að fara og sjá þetta leikrit sem er nýstárlegt í augum íslenskra áhorfenda. Í næsta tölublaði verður greint nánar frá leiksýningunni í Lindarbæ.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
Þriðjudagurinn 14. mars 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



## 8. mars fólk sameinist

Á hinum alþjóðlega baráttudegi verkakvenna gekkst "8. mars-hreyfingin" fyrir baráttufundi í Tjarnarbúð. Húsið var þéttsetið og má sjá á þeim tveim fundum sem haldnir voru þennan dag að mikill hugur er í konum úr alþýðustéttum um að gera þennan dag að virkilegum baráttudegi.

Á fundinum hélt Elísabet Bjarnadóttir ræðu og kom í henni víða við (kannski helst til víða) en annars var ræðan vel málefnaleg. Eins talaði á fundinum fulltrúi frá Kvinnefronten í Noregi og skýrði frá ástandinu í kvennabaráttunni þar. Auk ræðanna skemmti kór Alþýðumenningar með söng og flutt voru önnur skemmtiatriði.

Kjörorð 8. mars-hreyfingarinnar eru: Gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum - Dagvistarrými fyrir öll börn - Fulla atvinnu - Gegn fjölda uppsögnum - Sjálfsákvörðunarrétt kvenna til fóstureyðinga - Gegn allri heimsvaldastefnu.

Öll eru þessi kjörorð góð og gild og er auðséð af þessum fjölmenna fundi, um 300 manns, að þeim vex fylgi meðal fjöldans. En þá kemur upp sú spurning sem angraði flesta þennan annars árangursríka dag: "Hvers vegna eru tveir fundir?" Það er eðlilegt að margir yrðu hissa og óánægðir með að tveir fundir væru haldnir, einfaldlega vegna þess að aðstandendur beggja fundanna eru yfirleitt sammála um hver séu kvennabaráttumálin. Kvennabaráttan er afmarkað mál sem snýst um að afnumin sé aldagömul kúgun kvenna. Sú kúgun er kynferðisleg og á sér stéttarlegar orsakir. Þátttaka fólks í kvennabaráttunni á fyllilega rétt á sér, þó það sem einstaklingar hafi ranga afstöðu til heimsvaldaeðlis Sovétríkjanna. En það hvort Sovétríkin væru heimsvaldasinnað stórveldi eða ekki, var það sem greindi á um milli fundanna. Ekki svo að skilja að það fólk sem sótti fund Rauðsokka sé stuðningsfólk sósíalheimsvaldasinnanna, heldur eru meðal þess skiptar skoðanir hvert eðli

Framhald á síðu 2.




## Baráttuandi í Félagsstofnun stúdenta

Miðvikudaginn 8. mars stóðu Rauðsokkahreyfingin, MFÍK og Kvenfélag sósíalista fyrir fundi í Félagsstofnun stúdenda. Dagskrá fundarins var um íslenskar verkakonur fyrr og nú, kjör þeirra og baráttu. Verkalýðsmálahópur Rauðsokkahreyfingarinnar bar hitann og þungann af undirbúningi fundarins. Hópurinn samdi til dæmis dagskrána, sem var mjög góð. Það efni sem þar kom fram var allt í anda þeirrar stefnu sem Rauðsokkahreyfingin hefur sett sér og Verkalýðsmálahópurhefur starfað eftir: Kvennabarátta er stéttabarátta. Í fyrri hluta dagskrárinnar var fjallað um kjör verkakvenna áður fyrr, og var sá kafli mjög vel heppnaður. Mikið var byggt á viðtölum og æviminningum, sem gáfu efninu líflegan og raunsæjan blæ. Meðal annars var lesið upp úr æviminningum Helgu Níelsdóttur ljósmóður, þar sem hún lýsir kynnum sínum af kjörum verkafólks á atvinnuleysistímum. Einnig var sagt frá baráttu Verkakvennafélagsins Framsóknar og stofnun Sóknar. Kom margt fróðlegt fram, efni sem vert væri að koma betur á framfæri.

Í seinni hluta dagskrárinnar var fjallað um stöðu verkakvenna í dag og svarað borgaralegum áróðri sem beinst hefur gegn verkakonum undanfarið. Var m.a. hæðst að Morgunblaðinu, við góðar undirtektir fundargesta. Þar var líka tekið upp hve erfitt er fyrir konur, sérstaklega eldri konur að öðlast hin sjálfsögðu mannréttindi, að fá að vinna.

Framhald á síðu 2.

## Stríðið í Eþíópíu: Sovésk heimsvaldastefna

Styrjöldin í Eþíópíu hefur verið mikið í fréttum., undanfarið. Er þetta bara eitt af þessum átökum sem menn eru altaf að hugsa um í Afríku, eða veist þú hvað er þarna að ske í raun og veru? Stríðið snýst ekki um yfirráð Eþíópíu eða Sómalíu yfir einhverju landi, heldur um yfirráð Sovétríkjanna yfir öllu hinu svonefnda Afríkuhorni sem er mjög efnahagslega og hernaðarlega mikilvægt. Ef Sovétríkin ná yfirráðum yfir Afríkuhorninu, ráða þau yfir Rauðahafinu og einnig siglingaleiðinni um Súesskurð og skal það tekið sértaklega fram að um Rauðahafið er flutt um 50% þeirrar olíu er Evrópa notar. Yfirráðin verða einnig til að styrkja aðstöðu Sovétska flotans á Indlandshafi.

Mikilvægi þessa svæðis er svo gífurlegt að fullvíst er talið að Bandaríkin láti ekki afskiptalaust að Sovétríkin nái yfirráðum þar. Sovétríkin eru einnig að auka afskipti sín annarstaðar í Afríku, í harðri samkeppni við Bandarískt og vestur-Evrópskt auðvald. Þessir hagsmunaárekstrar og samkeppni risaveldanna er eimitt það sem stofnar heimsfriðnum í hættu.

### Hlutur Sovétríkjanna

Ekki þarf mörgum blöðum um það að fletta hverjir halda í spottana í Eþíópíu. Í herráði þess eru 8 Sovétmenn, 3 Kúbanir og 7 Eþíópíumenn. Þá er og mikill fjöldi sovéskra, Kúbanskra og Suður - Jemenskra hermanna og hernaðarráðgjafa í landinu. Sovésk vopn steyma inn í landið, og herskip þeirra skjóta á hafnarborgir og bæi, og sovéskar flugvélar gera loftárásir og varpa napalmsprengjum. Þetta heitir víst á máli sovétvina „að styðja frelsisbaráttu þriðja heimssins". Greinilega er ekki sama hver frelsishreyfingin er, því aðeins að hún se handgengin Sovétríkjunum í einu og öllu fær hún stuðning þeirra. Þannig er t.d. ráðist á frelsishreyfingu Erítreu og þannig styðja Sovétríkin eina frelsishreyfinguna gegn annari eins og t.d. í S-Afríku þar sem þeir styðja ANC gegn PAC og ZAPU gegn ZANU í Zimbabwe, og allir þekkja dæmið frá Angóla. Fyrst Sovétríkin sækjast eftir flotaaðstöðu í hafnarborgum Massouwa og Assab í Erítreu, þá setja þau það ekki fyrir sig að hætti heimsvaldasinna að berja niður alþyðu landssins.

Verkföll eru nú bönnuð í Eþíópíu og Alþýðusambandið þar hefur verið leyst upp og fyrrverandi forystumenn þess handteknir. Daglega fara fram húsrannsóknir, fjöldahandtökur og morð á meintum andstæðingum stjórnarinnar.

### Samstaða Afríkuríkja

Fjölmörg Afríkuríki hafa for-

Framhald á síðu 3.

## Sjáum „Fansjen"

Það er ekki á hverjum degi sem íbúum fámennasta ríkis í heimi gefst tækifæri á að sjá sögusanna atburði sem gerðust í fjölmennasta ríki heims á árunum 1945-1949 þ.e. rétt fyrir byltinguna.

Þennan möguleika býður 4. bekkur S í Nemendaleikhúsinu okkur upp á. Nemendurnir hafa nú sett á svið leikritið "Fansjen" (Umbyltingin) sem samið er af bretanum David Hare upp úr verki bandaríkjamannsins William Hintons, sem dvaldi í Kína um langt skeið og skrifaði þar verk sitt. Þegar Hinton kom með bókina heim frá Kína, var hún kyrrsett í bandaríska tollinum

Það var árið 1953 og ekki fékkst hún þaðan fyrr en Hinton hafði unnið málaferli gegn yfirvöldunum árið 1958.

Birtist bókin svo fyrst á prenti í Monthly Review Press árið 1966.

Hare segir um leikritið: "Þetta er leikrit - samið fyrir evrópubúa, vesturlandamenn. Í því er reynt sýna tilgang og framkvæmd jarðaskiptastefnunnar í Kína, leiða í ljós, hvernig hún hafi áhrif bæði á andlega og líkamlega líðan fólks. Auk þess snýst leikritið mjög um pólitíska forystu og samband leiðtoga við þá, sem stjórnað er í hvaða samfélagi sem vera skal".

Þeir atburðir sem leikritið sýnir gerðust eitt sinn í bændaþorpinu Tjangtsjúang, sem er 650 km. fyrir sunnan og vestan Peking. Þar ríkti lénsskipulag. Hinton fylgdist þar með því er farið var að



Bændafólkið í Tjangtsjúang ræðir vandamál byltingarinnar í Kína.

## Vaknið og syngið

Leikfélag Kópavogs hefur nú hafið sýningar á leikritinu "Vaknið og syngið" eftir bandaríska leikarann og leikskáldið Clifford Odets (1906-1963). Leikritið gerist í Bronxhverfi í New York á tímabili kreppunnar miklu eða nánar tiltekið 1934. Þetta tímabil einkennist af því öryggisleysi sem alþýðan í Bandaríkjunum varð að búa við. Sífellt atvinnuleysi, gjaldþrot á heimilunum sem kostaði það að fólkið var borið út á götuna, hungursneyð og hörð stéttabarátta. Allar þessar hörmungar voru afleiðing þess að auðstéttin fékk ekki nægan arð af þeim vörum sem framleiddar höfðu verið af verkafólki. Kreppuástand skapast þegar óskipulega framleiðslan í auðvaldsþjóðfélaginu sem einkennist af sjúklegri samkeppni milli auðherranna, hefur komið því til leiðar að of mikið hefur verið framleitt af ákveðnum vörum.

Þá yfirfyllist markaðurinn og vöruverð lækkar að sama skapi. Auðherrann fær þá ekki lengur það verð fyrir vöruna sem færir honum gróða. Það sem hann þá tekur til bragðs er að stöðva það að varan komist á markað og bíða eftir að markaðurinn tæmist. Þá þegar markaðurinn er orðinn tómur, eykst eftirspurnin eftir vörunni og þá getur auðherrann hækkað vöruverðið, svo hann fái nú sinn gróða.

Framhald á síðu 4.